# BÚENDATAL

í

## Wynyard og grendinni

veturinn 1932 og '33



# Íslendingatal

## Húsráðenda

## í

## Wynyard-bæ

Veturinn 1932—33.

*Rímað af*

*T. T. KALMAN.*



Margt er sér til gamans gert
geði þungu að kasta.
Það er ekki einskisvert
að eyða tíð án lasta.
*S. Breiðfjörð.*

WINNIPEG
Prentsmiðja Ó. S. Thorgeirssonar
1933



# UPPTALNING.



6. JAKOB NORMANN, mjólkursali.

Jakob Normann finn eg fyrst,
fremst og syðst á bakka,
unnað hefir ljóði og list
langa æfi og skakka.

7. ÓLAFUR HALL, bóndi.

Ólafur Hall þar annar býr
yst við landamæri,
maðurinn er mikið skýr
mest á raddarfæri.

8. STEINÞÓR GUNNLAUGSSON, málari.

Staldra við hjá Steinþór má,
stór er ýmsa vega.
Málið blandar maður sá
mikið og ákaflega

9. HALLDÓR HALLDÓRSSON, fasteigna- og tryggingasali.

Þá er Halldór Halldórsson,
hýr og viðmóts þýður,
honum hefur viðhalds von
verið allur lýður.

10. STEFÁN TÓMASSON, bóndi.

Stefán býr á bakka hér
bæjar innan línu,
hýr og dagfars hægur er,
heldur vel að sínu.

11. MAGNÚS INGIMARSSON,
verkamaður.
Magnús nefndur maður er
mætur fræðaþulur,
rökin skýr og rétt fram ber,
raunar nokkuð dulur.

12. INGIBJORG, LÍNDAL, ráðskona.
Upp skal talin Ingibjörg
allra bezta kona,
ensku börnin elur mörg
upp til glæsi vona.

13. VALDI SCRHAM, verkamaður.
Valdi Schram sitt leggur lið
lítið á þó beri,
sérstaklega sagar við.
sem að væri úr sméri.

14. OTTÓ BJARNASON, vélamaður.
Þyl eg Ottó þakkargjörð
þungar ræður gátur,
skriðdreka um skelfda jörð
skeiðar, mikillátur.

15. EGILL HÖRDAL, járnsmiður.
Aldrei verður Agli svalt
eða nær að kikna,
hamrar járnið heitt og kalt
hann svo Gallar vikna.

16. TÓMAS HÖRDAL, öldungur.
Tómas Hördal efri ár
á er mikið hniginn,
lengi þótti karlinn knár,
kænn og orðadrýginn.

17. SIGRÍÐUR BJÖRNSSON,
lausakona.

Bæinn hirðir Sigga sinn
sæl í karlmannsleysi,
hata segist hjúskapinn
hvað sem móti geysi.

18. ÓLI ANDERSON, verkamaður.

Finnur Óli Andersen
ekki fjárhags brestinn,
þó að eigi ekkert lén
utan sôg og hestinn.

19. SIGURÐUR ÁRNASON,
gæslumaður skólans.

Sigurð gjarnan greina vil,
gætir skólaljósa.
Þaðan leggur æsku-yl
ungra blómarósa.

20. JÓHANNES JOHANNESSON,
verkamaður.

Halti Jói hraðar sér
hvert sem vikin bera,
sí-starfandi alt af er
oft má smátt vel gera.

21. KRISTJÁN BERGSVEINSSON,
slátrari.

Um eg knáann Kristján get,
kunna fáir betur,
sagar hann og selur két
sumar bæði og vetur.

22. MARGRÉT og KRISTÍN KRISTJÁNSSON.

Margrét og Kristín mæðgur tvær
mætar saman búa,
góðhjartaðar geyma þær
góða sál og trúa,

23. FRIÐRIK DAVIÐSSON,
verkamaður.

Friðrik ekki fram hjá geng,
fæst hann mest við hesta,
mun þar líkast mætan dreng
meirihlutinn festa.

24. FRÍÐA HÖRDAL, Húsfreyja

Fríðu Hördal finna má
farirðu gætilega,
hús og bú hið besta á
beiskan laus við trega.

25. HILDA HANSSON, Ekkja.

Hilda prýði bestu ber
búin kosta hótum,
ágætlega sómir sér
sú á gestamótum.

26. KRISTJÁN BERGÞÓRSON,
Verkamaður.

Kristján hefur besta bú
bæði skýr og hnellinn,
hirðir sá með trygð og trú
tæru skautasvellin.

27. ÁRNI og JÓRUN SVARFDAL,
Systkyni.

Svarfdæla ef sækið fund
sóma krýnda hlaði,
þeirri varið verður stund
vel í alla staði.

28. ÁRNI EYJÓLFSSON, Lyfsali.

Árni býr á Ásgeirsstað,
altaf hýr og glaður,
hann á dýrast heilsubað,
hann er skýrleiksmaður.

29. JÓHANNA JOHNSTON, ekkja.
Jóhönnu í brjósti býr
blossi af eldi fínum,
hjartagæðin gefur dýr,
gömlum föður sínum.

30. JÚLIUS JOHNSSON, bóndi.
Júliusi mæta mátt,
maðurinn orðaglaður,
lyftir þér í lífsins átt
laus við bæjarslaður.

31. GUÐMUNDUR GOODMAN,
verkamaður.
Guðmundur er gáfna ör
geymir þjóðar siðinn,
karlmannlega kémpan snör
klífur og sagar viðinn.

32. STEFÁN MAGNUSSON, smiður.
Stefáni við stönsum hjá,
stundin hljóðs þig biður,
dætur margar ungar á,
allra besti smiður.

33. MAGNÚS BJARNASON,
vélamaður.
Magnús sæmdum sínum trúr
sýnir fremd í tali,
ljósastraumum les hann úr
lausa cent og dali.

34. SIGURÐUR JOHNSON,
kornkaupsmaður.
Sigurð alskyns rop og raup
rænir hjartagriðum,
gerir hann á korni kaup,
kær af báðum hliðum.

35. MUNDI SIGURBJÖRNSON, bóndi.
Ef að mætir Mundi þér,
mun hann hvergi hopa,
búhöldur hinn besti er,
—bragðar aldrei dropa.

36. DÓRA YOUNG, ekkja.
Dóra hefur erfitt átt
oft um langa daga,
ber þó jafnan höfuð hátt,
heyrist aldrei klaga.

37. JÓNA AXDAL, ekkja.
Börnin Jóna veðrum ver
vinnist tíminn hraður,
hennar stóra hjarta er
hópsins griðastaður.

38. GUNNLAUGUR GÍSLASON,
smiður.
Gunnlaugur á haga hönd,
hefur margt í smíðum,
sín af kergi sagar bönd
sem við eftir bíðum.

39. DAGMAR THORLÁKSSON,
vatnsmaður.
Dagmar vor er þarfa þing,
þó að verjist föllum
vatnið ber hann bæinn kring
blómarósum öllum.

40. SIGRÚN THORSTEINSSON, ekkja.
Sigrún kona Sveins er þar
sóma kvendið mæta,
sáran djúpu sorgirnar
sinni hennar græta.

41. HANNES BENEDIKTSSON,
verkamaður

Fram hjá Hannes fer eg ei
fótspor eitt að ganga,
hann er sóma og gæða grey
góður að afla fanga.

42. SÓLRÚN JOHNSON, lausakona.

Heim eg sækja Sólu kann,
sú er fljót að gegna,
aldrei hefur eignast mann,
einhverra hluta vegna.

43. PÉTUR SIGURJONSSON, bóndi,

Pétri fróðum finn eg hjá
fræði þjóðar minnar,
á hann glóðir innan frá
ættarmóður sínnar.

44. FRÍÐA LAXDAL, ekkja.

Fríða Laxdal lífsins tap
lætur sig aldrei buga,
ber hinn forna skörungs skap
skráðan í gjörð og huga.

Þuríður með þrek og ró
þessum býr í ranni,
aldur hnigin er hún þó
ógift nokkrum manni.

45. GUÐMUNDUR ÞÓRARINSSON,
smiður.

Guðmund smið eg greina kann
gætnari fáa drengi,
pípu sína passa vann
prýðisvel og lengi.

46. TRYGGVI FRIÐRIKSSON, bóndi.
Ekki blandar Tryggvi trú
til er aðrir heyra.
Hefur talsvert hænsnabú
hann, og eitthvað meira.

47. SKÚLI GOODMAN, verkamaður.
Skúli ber sitt höfuð hátt
hörð þó reynist glíma,
konu hefir enga átt
æðilangan tíma.

---

48. Austurbæinn allan hér
upp eg hefi talið,
eins og maður sérhver sér
sæmilegt er valið.

49. Vesturbærinn verður síst
verri að höfðatali
allur saman út hann brýst
undan mannavali.

50. ÓLI JÓHANNESSON, aflstöðvarstj.
Óla fyrstan finnið þið
fari ljós að dvína,
aflstöðina vinnur við
verndar eins og sína.

51. TED EYJÓLFSSON, lyfsali.
Röskur þykir Theódór,
það mun nærri sanni,
lyfjafróður, lyndisstór,
líkur herramanni.

52. ÁRNI EGGERTSSON, lögmaður.
Árna lögmann findu fljótt
flókið mál að vega,
lagaflækjur skýrir skjótt
skratti spámannlega.

53. GRÍMUR LAXDAL.
uppgjafa-bóndi.

Grímur Laxdal gleði ham
gefur öllum raunum,
land hér áður nýtur nam,
nú á eftirlaunum.

54. KRISTJÁN AUSTMANN, læknir.

Kristján flesta mæðu manns
minkar inn við beinin,
læknar hann með lyfja fans
lífs og sálar meinin.

55. GÍSLI BENEDIKTSSON,
kornkaupmaður.

Geta má um Gísla vorn
glöggann með söngvið eyra,
dundar við að kaupa korn
kolasölu og fleira.

56. ÁGÚST SIGURÐSSON, prentari.

Gústa vöskum velli á
vill nú förlast glíma.
prentsvertunnar kémpa kná
kvartar um harða tíma.

57. INGI GUÐJÓNSSON, járnbrautarm.

Ekki hefur Ingólf þar
upp að neinu dagað,
sá hefur lengi Sípíar
suðukatla lagað.

58. RAGNHEIÐUR KRISTJÁNSSON,
ekkja.

Ragnheiður frá Reykjavík,
reynist ýmsum meiri,
sér er að eins sjálfri lík
— svo eru margir fleiri.

59. HARALDUR HELGASON,
Haraldur sem hérna býr,
hann er skemtilegur
atvinnan þó oft sé rír,
alt af rís hans vegur.

60. LEÓ THORGEIRSSON,
gullsmiður.
Leó vildi eg mæta meir,
maður skýr í svörum
silfurhringi og sitthvað fleir
selur ungum pörum.

61. HALLGRÍMUR AXDAL,
Telefónsmaður.
Allir heimta Halla ró.
hann við fóninn situr,
eftir vexti er hann þó
undarlega vitur.

62. UNA GUNNLAUGSON, ekkja.
Ekki beigir Unu hót
árás vetrar fanna,
er að fást við alskyns dót
ýmsra Brautarmanna.

63. PÁLL BJARNASON,
fyrverandi fasteigna og bílasali.
Pál með vitið voðalegt
veit eg líkann Snorra,
stritast við að spilla spekt
spesíu-konga vorra.

64. DAN OLIVER. tinsmiður-
Oliver á manna mest
með hvern leka að sanna,
gerir hann við götin flest
góðra bæjarmanna.

65. FRIÐRIK THORFINNSSON,
kaupmaður.

Fínnast skulum Frigga hjá
fáir veita betur,
harðvöruna selur sá
sem að enginn jetur.

66. ALDÍS EYJÓLFSSON, ekkja.

Stendur Aldís Eyjólfsson
enn í fullum blóma,
hennar æfi-yndi og von
allan stunda sóma.

67. GUNNLAUGUR EYRÍKSSON,
músík-kennari.

Gunnlaugi er glettnin hjá
góð á öllum fótum,
músík kennir maður sá
mest þó eftir nótum.

68. JÓN REYKDAL, verslumarmaður.

Reykdal hlýðir ríkri lund
rausnar prýði meður,
geymir blíða gleðistund
gegnum hríðarveður.

69. SIGURJÓN og GUÐRÚN AXDAL,

Axdals-hjónin æfi-mædd
enn er gott að finna,
þaðan streymir glóðin glædd
gamal- merkra kynna.

70. SIGURÐUR BJARNASON,
raffræðingur.

Sigurður Friðrikssonur kann
sigri hrósa dýrum,
rafurmagni rennir hann
réttum eftir vírum.

71. JÓN ANDERSON, vélamaður.
Glímir Jón við gátur þrátt
gamall vélahestur,
honum treysta hiklaust mátt
hann er manna beztur.

72. VIGFÚS BALDVINSSON, bakari.
Ef að þú til Fúsa ferð
færðu gott í maga,
baukar hann við brauðagerð
bara alla daga.

73. GEIRI HALLGRÍMSSON,
úlfararstjóri.
Valgeir hefur vit og spekt
vinnu stundar sína,
sér hann um að sæmilegt
sé með útför þína.

74. MRS. JÓSEPHSON, ekkja.
Jósephssonar fagra frú
finnur heillaríka,
bindur sig við bókstafstrú,
biblíuna líka.

75. BJARNI og GUÐRÚN STURLAUGSSON.
Bjarni og Guðrún búa þar
bæði í sama húsi,
virktum kvaddur víðast hvar
vina skarinn fúsi.

76. JÓNÍNA EYJÓLFSSON, ekkja.
Jónina um efri ár
er í lund að kætast,
sínar eigin sumar þrár
sér hjá börnum rætast.

77. SIGURLAUG FINNSSON, ekkja.
Sómakonan Sigurlaug,
sinnar æfigjafar
forn íslenzka fremdar laug
fram til leiðir grafar.

78. ÞÓRUNN FINNSSON, ekkja.
Þórunn með sér þokkann ber
þrek og hjartaglóðir,
fáa jafna sína sér,
svona er að vera móðir.

79. MUNDI GOODMANN, (Argyle)
verkamaður.
Mörg er sagan Munda kær
manns er gaman drýgi,
sumar þó að séu þær
sagðar haugalýgi.

80. ÞÓRÐUR JÓSEPHSSON,
verkamaður.
Þórður ennþá þraukar hér
þó séu kaldar nætur,
hálfnað er verk þá hafið er,
—hann sér nægja bætur.

81. VILLI EINARSON, malari.
Einarson eg sómamann
sí-starfandi orða,
mjölinu smærra malar hann
mestann bænda forða.

82. STEINI BERGMANN, kaupmaður.
Ekki gleymist Aðalsteinn
á þó sumum græði,
ljúfur maður lyndishreinn
lífs er stundar gæði.

83. EMMA EYJÓLFSSON, ekkja.
Emma heitir Eyjólfsson
ekkja blóma vafin,
börnum sínum vaxtar-von
veitir önnum kafin.

84. SIGURBJÖRG og SIGURVEIG
AXDAL.
Boggu og Veigu best eg veit
binda hjörtu saman,
hvorug sæl til sólar leit
sæi á hinni aman.

85. HJÖRLEIFUR HJÖRLEIFSSON,
kornkaupsmaður.
Hjörleifs er ei lipur lund,
lítið hægt að sveigja,
á hann treystu alla stund,
aðrir hvað sem segja.

86. SIGGI BLÖNDAL, verkamaður.
Siggi Blöndal býr hér næst
besta dreng er fundum,
vinnu ýmsa við hann fæst,
vinnulaus á stundum.

87. SIGURJÓN SVEINSSON, öldungur.
Sigurjóni Sveinsson hjá
sagan margrar hríðar,
manndóms-raunir rekur frá
risnu landnámstíðar.

88. BÆRINGUR HALLGRÍMSSON,
verkamaður.
Bæring góðan bónda tel,
búin dygðum vera,
hefur indælt hugarþel.
hafi 'ann nóg að gera.

89. JÓHANN og FRIÐRIKA DAVIÐSSON.

Jói og Rikka, maður má
muna ykkur lengi,
enga þykkju þar að sjá
þó að skrikkjótt gengi.

90. BJÖRN BJÖRNSON, smiður.

Mikil-virkur má hann Björn
minna en litið sofa,
börnin ung og óframgjörn,
öllu góðu lofa.

91. KARL JOHNSON, vélamaður.

Ekki fer hann Karl með kukl
kraft er bílum gefur,
verður samt að þybb og þukl
þráfaldlega tefur.

92. EINAR BJARNASON, verkamaður.

Einar minn við heilla hag
hefur nóg að saga,
svalt er undir sólarlag
suma vetrardaga.

93. BJÖRN ÓLAFSSON, kornkaupmaður.

Björn Ólafsson, mætan mann
margir hlutir sæma,
bænda kornið kaupir hann
kann það best að dæma.

94. TOBÍAS TOBÍASSON, múrari.

Ekki hefur lífið léð
lánið Tobíasi
spilar bridge og múrar með,
mesti púðurvasi.

## ENDIR.

95. Nú er lokið nafnaskrá,
njóti þeir sem lesa,
svo að munist öldum á
öll í þessum pésa.

96. Lofstýr vorn um lönd og sjó
látum víða fljúga,
þeirra manna ruglist ró
sem reyna um hann að ljúga.

97. Vindum segl við hæsta hún,
hverjir sem að vona,
minka ekki má um dún
maður eða kona.

98. Enginn vandi er að ná
einhverri fjandans lýsu.
Kveð svo, landar, ykkur á
eiginhandar vísu.

---

# EFTIRMÆLI.



## SIGURJÓNS EYRÍKSSON
og
## ÁSGEIRS BLÖNDAHL.

Hérna vantar eitthvað á,
ekki fyltur bragur,
þig er ekki sjón að sjá
sólarlitli dagur.

Tómlegt er um stað og stund,
stopult við að hjara,
þegar myrkrin þjaka lund,
þá er hvergi að fara.

Héðan eru horfnir tveir
höfðingsmenn úr bænum,
altaf kelur meir og meir
mann í vetrarblænum.

Mínir vinir voru þeir
virtir öðrum betur,
þegar þennan lága leir
lömdu fönn og vetur.

Marga glaða morgunstund
man eg Sigurjóni,
meðan að hans létta lund
lét sér fátt að tjóni.

Þrátt og jag um það og hitt
þróttinn frekar treindi,
þó að oftar mætti mitt
miður á er reyndi.

Þar var bæði þrek og mál
þó að ykist slagur,
öldungshærur, unglingssál,
öðlings hjartabragur.

Og er varði vitið best
vænstu jarðarsali,
skrautið varð að skreyta flest
Skagafjarðardali.

Merkt var svarið mannsins list,
"Margt þó fenni í sporin,
eg var Skagafirði fyrst
fæddur, alinn, borinn."

Þá var bjart að horfa heim
hlýtt um Fjörð og Stapa,
vorkunn er þó vini þeim
verði sárt að tapa.

---

Þá er margt eitt kvöldið kært
kuldan burt að flækja,
og um skapið orðið vært
Ásgeir heim að sækja.

Húnvetningur hlár í lund
hann var margar stundir,
en hans snjalla prýðis-pund
prýddi allar lundir.

Þráfalt var við ýmsum ýtt
andans holta þokum,
okkur varð þá öllum hlýtt
oft að málalokum.

Eins er flugum heim um haf
holtum að og drögum,
þar var djúpur ómur af
eigin hjartaslögum.

Efldra fossa orku slög
eða brim við strendur,
þessi fögru, fornu lög
féllu í vina hendur.

Vinnipeg er þýtt hjá þér?
—þó sé ljótur skolli
einn að verða að una sér,
oft með kulda hrolli.

Verður skár ef veit eg þeim
vært um kaldar nætur,
þá við ljósið góða geym
geisla er hlýja lætur.

Vetrar kylja vertu nú
viljug hratt að keyra,
morgunbænir mínar þú,
mátt þeim hvísla í eyra.

Þær skulu varpa von og ró
vökustundir yfir,
verma mest í myrkri þó
meðan vetur lifir.

T. T. KALMAN.

# BYGÐARBRAGUR.

## Búendatal Íslendinga kringum Wynyard-bæ

Veturinn 1932—33.

Eftir fjórðungaskiftum.

*Rímað af*

*T. T. KALMAN.*







1. Bændur hér og búar allir,
bið eg ykkur hljóðs,
yfir landsins hreysi og hallir,
hefjast skal til ljóðs.

2. Ný eg mina sterku strengi,
stig á bogan minn,
svo að megi lifa lengi
lofstýr minn og þinn.

3. Þetta bölvað hnubb og hnippir
hnitaðs bræðralags,
drepa skulu krafta kippir
kvæða minna strax.

4. Hlustið þið og hljóðir standið
hvað sem fyrir ber,
í þungum sogum ef að andið
eitthvað missið þér.



## SUNNLENDINGA-SLAGUR.

5. HÁLFDAN BARDAL.

Byrja skulum Hálfdan hjá
hann hefir lengi barist,
kvennfólkinn karlinn sá
kænlega hefur varist,

6. ÁSGEIR GUÐJÓNSSON.

Heim á Ásgeirs garð eg geng
góðan höld skal sæma,
bónda, eins og besta dreng
búar allir dæma.

7. ALLI GUÐJÓNSSON.

Alli flesta iðju kann
akur sinn að laga,
oft því glaður eiga vann
uppstigningar daga.

8. SIGURGEIR AXDAL.

Geiri hefur búa best,
bóndinn, allur hvítur,
yfir kerru, og ökuhest
ansi drýginn lítur.

9. JÓN ÁRNASON.

Jón hér landi einu á
áfram er sig að spjara,
gætilega í sakir sá
segist muni fara.

10. BEN JÓSEPHSSON.

Bensi með sín börn og frú
býr í góðu standi,
síðan að hann tröllatrú
tók á bóndalandi.

11. HALLDÓR BARDAL.
Sækja vil eg Halldór heim,
höfðingslundin slinga,
mætir þér hjá manni þeim,
merkra ljósvetninga.

12. ÓLI BARDAL.
Þybbinn hefur Óli yfst
yfir tímabilið,
að hann hefur ekki gifst
aldrei get eg skilið.

13. ÞÓRHALLUR BARDAL.
Þórhalls bálar bylgjan frí
bóndann þjálar stóran,
bænda málum öllum í
er hann sálartóran.

14. HANNES GUÐJÓNSSON.
Gamla Hannes Guðjónsson
gott er manni að hrósa,
honum sanna veita von
Veiga, Anna og Rósa.

15. BOGI og FRIÐRIK PETERSSON.
Bogi og Friðrik, bræður tveir,
búa á næstu grösum,
freistíng enga þekkja þeir
þó við sumir hrösum.

16. OLGEIR GUNNLAUGSSON.
Ekki gleymast Olgeir má
úti í Gallabygðum,
landi blómgu býr hann á
búinn ótal dygðum.

17. MAGNUS GUÐMUNDSSON.
Magnús þar í sömu sveit
situr út á landi,
æskuvonin há og heit
honum er líf og andi.

18. JÓN VESTDAL.
Jóni Vestdal, viti menn,
vex nú flest í augum,
mun þó hrestur eiga enn
urg í bestu taugum.

19. PÁLL VESTDAL.
Páll sitt eigið passar bú
prunkinn margt að laga,
hefur sinni tapað trú
töluvert þessa daga.

20. BJÖRGVIN VESTDAL.
Björgvin heitir bróðir hans,
búinn mörgum kostum,
oft við strangar erjur manns
úti í vetrarfrostum.

21. SIGURÐUR SÖLVASON.
Sigurður á sæmdar bú
sinnar eigin jarðar,
minnist glaður gullsins nú
gamla Skagafjarðar.

22. STEINGRÍMUR B. JOHNSON.
Grímsi breiðar ekrur á
ávöxt sem að bera,
búfugl þykir þegninn sá
þar er gott að vera.

23. KRISTINN JOHNSON.

Kristinn stendur erjum í
eins og vanalega,
engin þó að efni ný
yfir sé að vega.

24. BRYNJÓLFUR JOHNSON.

Lengi þótti Brynka bú
bæta strjála gleði,
silfur hærur hylja nú
höfuð það sem réði.

25. VALDI JOHNSON.

Vinnusamur Valdi knár
vöxt ei líkar stórum,
á þó margur maður hár
minna í sínum fórum.

26. NIKULÁS GUÐMUNDSSON.

Landið nam hér Nikulás
nýtur bóndinn trúi,
hefur bæði hurð og lás
hann á sínu búi.

27. LÚLLI MAGNUSSON.

Lúlli undir hlynum hlé
hefur flesta vegu,
þessar frönsku segir sé
sínar elskanlegu.

28. GUNNAR GUÐMUNDSSON.

Gunnar sá hið hýra haf
himinn bláan spanna,
blóðið áa brjósti gaf,
bónda þráan sanna.

29. MUNDI GOODMAN.
Ekki segir Mundi margt
mikið fátalaður,
en mörgum verður hinna hart
hreinni að reynast maður.

30. KARL GRÍMSSON.
Kalla er margt til kosta sagt
kann hann landbúnaðinn.
undir sig hefur landið lagt,
lifa fær í staðinn.

31. ELÍN SCHRUP.
Elín góðu búi býr
börnum sínum meður,
aldrei hún af hólmi flýr
hörð þó reynist veður.

32. HALLDÓRA SIGURJÓNSSON.
Dóra á þingum þroskafríð,
þykir sling, úr hreysi,
Islendingur alla tíð,
eldar kring þótt geysi.

33. GUNNAR JÓHANNSSON.
Heim til Gunnars halda skal
heiðursmaður gætinn,
þjóðmálin og þesskyns hjal
þar eiga fremstu sætin.

34. ÓLI BJÖRNSSON.
Mörg sat Óli þarfa þing,
þrifa vorra að gæta,
þroskagjörnum þingeying
þar var æ að mæta.

35. BALDVIN SIGURÐSSON.
Fjörið ólmt í Balda brann
breisklynt stöku sinni,
afar mikið iðjar hann
ekki þó hann vinni.

36. Sunnlendinga svona kveð,
sólin roðar veginn,
indælt sé þeim lánið léð
loksins, hinumegin.

---

## AUSTMANNA - ÓÐUR.

37. ÁRNI SIGURÐSON.
Árna fyrstan eystra tel,
á hann margt í vonum,
listasnjallur leikur vel,
létt er yfir honum.

38. FRIÐRIK KRISTJÁNSSON.
Lengi hefur Friðrik fær
frækilega dugað,
jafnvel Elli aldrei fær
ungling slíkan bugað.

39. ÓLI og MUNDI KRISTJÁNSSON.
Óli og Mundi dáð og dug
drengilega sýna,
styrkja þeir með hönd og hug
hana móðir sína.

40. GUNNLAUGUR GÍSLASON.
Gunnlaugur hærur bjartar ber
beint og kvikt er skrefið,
og sólskinsdropi sannur er
að sjá hann gefa í nefið.

41. ÁSTVALDUR HALL.
Valdi er altaf áfram jafnt
upp á við að lyftast,
en ótrúlega er hann samt
eitthvað lengi að giftast.

42. KARL MAGNÚSSON.
Koma við hjá Kalla má
kátir saman spaugum,
landbúnaðinn lítur á
lofsamlegum augum.

43. HÓLMGEIR GUÐNASON.
Hömmi býr, og hann á gott.
hann þarf ekki að fasta,
bóndasælu sinní brott
segist aldrei kasta.

44. BISMARK BJARNASON.
Inn um Bismarks höldum hlið
heima er að vanda,
baukar mikið vélar við,
veitir þeim líf og anda.

45. LÉO HALLDÓRSSON.
Leó vaskann víking þar
veit eg, rétt við brúna,
fjögramaki frekur var,
farinn að bilast núna.

46. ALBERT ÍSFELD,
Albert hefur unga sál,
ekki er því að neyta,
það er komið meira en mál
menn hefðu' það til sveita.

47. TRYGGVI HALLDÓRSSON.
Tryggva aldrei um var spáð
annar eins snilli kraftur,
sá hefur mönnum sumum náð
svo að þeir ganga aftur.

48. ÓLI HALLDÓRSSON.
Óli hefur ítak sýnt,
ötull sína varið,
og svo fyrir bændum brýnt
bölvað stjórnarfarið.

49. ÞORLÁKUR JÓNASSON.
Láki elskar ljóðið þægt
líka vísur kærar,
þó hefur aldrei bóndans bægt
búhag, stundir værar.

50. ÁGÚST ÍSFELD.
Gústi marga góða fórn
gaf, og stundum fleira,
situr hann í sveitarstjórn
svo hann geti meira.

51. ÓSKAR ÍSFELD.
Búmann Óskar besta veit,
bætir flestan haginn,
vifi aldrei við hann leit
vetrarlangann daginn.

52. KRISTMUNDUR GOODMAN.
Mundi er bóndi fyrst og fremst,
finst það sumum skrítið,
hvert til tignar hærri kemst
held eg geri lítið.

53. BJARNI F. BJARNASON.
Búi sínu Bjarni ann
bæjar hatar skvaldur,
en giktin er að gera hann
gamlan fyrir aldur.

54. BJÖRN GOODMAN.
Bjössi hefur þybbinn þótt,
það á marga vegi,
búskapinn með sóma sótt
sama á nótt og degi.

55. BJÖRN JÓSEPHSSON.
Björn er sæll, og burða knár
bóndaefna mestur,
sjálfsagt vegnar seinna skár,
sannur vinnu hestur,

56. BJÖRGVIN EINARSSON.
Mörgum til sín Beggi bauð,
bóndi mæta góður,
safnað hefur sínum auð
sögulega fróður.

57. JÓN BERGSVEINSSON.
Gæfulega gat hann Jón
gamlar þrautir bugað,
jarðarinnar þarfa þjón
þar hefur lengi dugað.

58. HANNES ANDERSON.
Hannesi eg hrósa skal
hvað sem búskap líður,
djarfmannlegra dætra val
drengja fárra bíður.

59. SIGTRYGGUR GOODMAN.
Tryggva getur gæfan stutt
gerðust þau til vina,
yngdur hefur aftur flutt
út á landsbygðina.

60. ÞORBERGUR HALLDÓRSSON.
Eigi skil eg eftir Berg,
ekkert bú þó hafi,
stendur á trúum trygðamerg
tjónsins lausnargjafi.

61. JÓN P. JOHNSON.
Jón að stilla strengi kann
stormar sig þó reisi,
sagt er að lengi sofi hann
samt við kvenmannsleysi.

---

62. Ykkur kveð svo austanmenn,
óska góðra daga,
það má sjálfsagt eitthvað enn
ykkar töluvert laga.

---

## NORÐLINGA - LÖG.

63. EDDI SIGFÚSSON.
Edda Norðling fyrstan finn
fyrir handan bæinn,
bóndi sá við búskapinn
baukar allan daginn.

64. VALDIMAR GÍSLASON.
Vitja skal um Valdimar
virtur hirðumaður,
hyggið á hann hugarfar
hægur og viðmóts glaður.

65. MAGNÚS O. MAGNÚSSON.
Manga, besta, merkisvörð,
má eg gestur vera,
á hann mesta óðalsjörð,
—og svo flest að gera.

66. GUNNLAUGUR MAGNÚSSON.
Laugi heimi haslar völl,
hann er viss með sigur,
hár sem ýtið Íslands tröll
að því skapi digur.

67. ÓLI O. MAGNÚSSON.
Óla er jafnan handtak heilt,
hans er prýðis staður,
um það verður ekki deilt
að sé heilli maður.

68. SIGURÐUR JOHNSON.
Siggi snar við stjórnar staf
stýrir hjá mörgum skélli,
vetrargleði vænni af
veit á hálasvelli.

69. SVEINN JÓHANNSON.
Sveinn er hér á sínum stað
sóma fornan eykur,
honum sækir elli að
er þó hvergi smeikur.

70. KRISTJÁN ÁRNASON.
Aldrei Kristján undan snýr
ef til stendur bóta,
góðar hefur karlinn kýr,
kom frá Minnesóta.

71. ÞÓRIR BJARNASON.
Víða fór hinn þrekni Þór
þyrmdi ei neinum bygðum,
en svo fór að einum sór
okkur hreinum trygðum.

72. FRITS FINNSSON.
Frits hefur ekki æfin spilt
eða dætur margar,
en þegar þær allar eignast pilt
er'onum fátt til bjargar.

73. JÓHANNES PÉTURSSON.
Jafnan hefur Jóhannes
jarðargróðri unnað,
og er strangur stormur blés
stýristökin kunnað.

74, HÓSÍAS PÉTURSSON, (innskot)
Tökin á hann Tobías
tvítugri mær að hlúa,
en helvíti er hann Hósías
heppinn við að búa.

75. JÓHANNES STEFÁNSSON.
Jói lék á landi og sjó
lausabönd af vetri,
margri "sökkur" sæng upp bjó
sem varð aldrei betri.

76. BERGÞÓR KRISTJÁNSSON.
Beggi engan blundar við
brúður hýran vanga,
sjálfsagt skiljið þetta þið
þær er ei gott að fanga.

77. MANNI DALMANN.

Manni dugnaðs drengur frí
dregur að búi vöndu,
fer hann oft á fiskerí,
fær þá stundum bröndu.

78. KRISTJÁN JÓNASSON.

Staðið hefur Stjáni sér
stórudómum ofar,
ennþá gleði eignast hér
ef að giktin lofar.

79. ÓSKAR HALLGRÍMSSON.

Óskar heima hitta vil,
honum gleymi valla,
sætan dreymir svanna yl,
sumir feiminn kalla.

80. JÓN EYRÍKSSON.

Jóns og Kriss er kem að gátt
kasta skyssu og trega,
þessi missir maður þrátt,
má það vissulega.

81. GUÐNI GILLIS.

Guðna um eg geta má
gætinn er að verki,
búi góðu bjargast á,
bóndans heiðursmerki.

82. ODDUR BJARNASON.

Odds mig heim að búi bar
bjó við vatnanöldur,
fallega spegla flötinn þar
fagurbláar öldur.

83. BJARNI JÓHANNESSON.
Heim til Bjarna halda vil,
hann er jafnan glaður,
verka sinna vandar til,
valinn eljumaður.

84. FRED JÓHANNSON.
Fred er nú á Fritsa stað
farnist honum betur,
mikið gerir æska að
undir harðan vetur.

85. MÆK GILLIS.
Magnús er sagður mannaval
mesti iðjudrengur,
þar um ekkert þrátta skal,
—þetta svona gengur.

86. GÍSLI GILLIS.
Oft er Gísli skýrt með skraf
skemtilega fróður,
sagður lika sumum af
sveitamaður góður.

87. JÓI GILLIS.
Jói þrekinn vel sig ver
við þó sumir kvörtum,
mestur hagleiksmaður er
mæta skýr, — á pörtum.

88. NIELS VÍUM.
Niels þess nú nýtur skár
nægju sína að friða,
öll hans bestu blóma-ár
bár'ann ofurliða.

89. TÓTI JÓHANNESSON.
Nuddar Tóti nótt og dag
nýtur sín þó valla,
sumra verður sældarhag
svipuslög að kalla.

90. VALDI GÍSLASON.
Gíslason er snældu snar
snúningum að gegna,
en um hug og hjartafar,
hefi ei náð að fregna.

91. FÚSI SIGFÚSSON.
Sigfús heim þá sækja skal,
sá er bóndi valinn.
yrkir laglegt akra val,
ýmsum fremri talinn.

92. KRISTJAN GÍSLASON.
Kristján eflir akur sinn
eins og bónda sæmir,
bregði'ann sér í bæinu inn
bróður engan dæmir.

93. MAGNÚS JÓNASSON.
Sækinn Magnús ýtir á
ekki hart þó fari,
ljómi bjartur leitar frá
litlu kertisskari.

94. FÚSI ÍSFELD.
Ísfeld gamli ekki neitt
undan slaga lætur,
þreki fornu þó sé breytt,
þá eru seigar rætur.

95. JÓN KRISTJÁNSSON.
Jóni hefi eg jafnan hjá
játað blóðið rauða,
blessist frjálsi bóndinn sá
bæði í lífi og dauða.

96. ÁRNI JOHNSON.
Öldungurinn Árni kann
árin sín að bera,
þrifnaðsbóndi þykir hann,
þjóðarsómi vera.

97. MUNDI JOHNSON
Mundi röskur rennir skeið,
ríkt og djarft er pundið,
að hann komist langa leið
litlum vafa bundið.

98. BEN JOHNSON.
Bensi hefur hlotnast frið
hjónabands í sælu,
langa daga lifi við,
lífsins sunnankælu.

99. PÉTUR THORLACÍUS.
Pétur myndar búi býr,
bóndi heiðursverður,
hefur bæði hesta og kýr,
—hann er svona gerður.

100. FÚSI THORLACÍUS.
Fúsi sýnir fremdar lund
fæst við jarðabætur,
einn í bóli alla stund
er þó kalt um nætur.

101. GILBERT SVEINBJÖRNSSON.

Gilbert sterkur stormum mót
stefnir lífs í gaman,
aldrei drengur æðrast hót
alt þó frjósi saman.

102. BERGUR JOHNSON.

Fram sér ryður Bergur braut
beitir gáfna jóri,
bókvísinnar blessun hlaut,
besti skólastjóri.

103. BRANDUR SVEINBJÖRNSON.

Bjart er yfir Brandi enn,
bóndi í skárra lagi,
svo eiga líka sumir menn
sitt af besta tagi.

104. VALDI HALL.

Valdi kátur leikur lög
land sitt vel þó hirði,
söngvaelskur er hann mjög,
—en er það nokkurs virði.

105. BJÖRN LAXDAL.

Æskan bjarta Bjössa kring
ber á vængjum funa,
ekki þó við einteyming
eftir giftinguna.

106. SIGGI SIGFÚSSON.

Lands í fylking leitar Sam
lengra en nær að gruna,
sækir í þungum sinnis ham
sigur í náttúruna.

107. STEINI GAUTI.
Lengi geymist Gauta vörn,
gætinn, fátalaður,
hann á konu, hann á börn,
hann er aðalsmaður.

108. JÓN JÓNSSON frá Mýri.
Jóni slyngur ljóða ljár
lífið yngir dofið,
þingeyinga hróður hár
honum syngur lofið.

109. STEINN SIGFÚSSON.
Móður sína styður Steinn
stór og verka hraður,
um þó skygnist ekki neinn
eðlis hreinni maður.

110. GUNNAR SIGFÚSSON.
Gunnar næstur bænum býr,
blasir líf við honum,
engum vanda undan snýr,
ungum studdur vonum.

111. Þá er lokið þessum hátt
þar má finna losa,
kanske eg sé að glettast grátt,
en gaman er að brosa.

---

## VESTANVÉRA - VÍSUR.

112. JÓN JÓHANNSSON.
Jóni fyrstum vestan vér
vil eg skýrum mæta,
mannfélagsins málin þver
mikið fús að bæta.

113. ÓLI STEFÁNSSON.
Oft er gamnið Óla hjá
óskastund sem lengir,
góðir hálsar segir sá
séu hérna engir.

114. MUNDI S. GOODMAN.
Er hann Mundi aflakló
oft við til þess fundum,
svona í hljóði sagt er þó
sjáist hýr á stundum.

115. JÓN JOHNSON PÓST.
Sóma Jóni silfurhár,
sá hefur brugðið vigri
mörg og breytin bónda ár,
búinu stýrir Sigri.

116. HALLDÓR GUÐJÓNSSON.
Góðu Dóri búi býr,
breytin lundin ríka,
getur verið skolli skýr,
skemtilegur líka.

117. JÓNAS JOHNSON.
Jónasar heim í hlað eg treð
hann er æfimóður,
aftur svo með sæmdum kveð,
sælir bóndi góður.

118. NÝMUNDUR JÓSEPHSSON.
Nýmundar ei notið fæ,
nautnir burtu sviftar,
drungi yfir drengsins bæ,
dæturnar allar giftar.

119. HALLDÓR JOHNSON.

Halldórs sest eg heim á bekk,
hann hefur gott af slíku,
höppin ýms hann hlotið fekk
hér í Ameríku.

120. GUNNAR JOHNSON.

Gunnar vel sinn stundar stað
stór og mikil-látur,
bóndasælu býr hann að
býsna hýr og kátur.

121. BARNEY JOHNSON.

Bjössi þykir bara skýr
bóndastandi að eira,
hann er nú að kaupa kýr
kindur, svín og fleira.

122. PÉTUR THORSTEINSSON.

Pétur Steingríms prýðis flest,
passa skólan fær'ann,
þó er eins og það sé best
þegar skellihlær'ann.

123. ELLI INGJALDSSON.

Elli sáir akurlönd,
öllum fús að þjóna,
plöggin ýms með haga hönd
hann er líka að prjóna.

124. SIGURÐUR MAGNÚSSON.

Sigga eg af alhug ann,
ekki er slíku að neita,
búa ekki betri fann
bónda, út til sveita.

125. JÓHANN BJÖRNSSON.

Hérna Jói Björnson býr,
búinn mörgu að gleyma,
viltur eins og veiðidýr,
—vær'ann bara heima.

126. EGGERT BJÖRNSSON.

Heim til Eggerts fús eg fer
finn þann hlýja blæinn,
ekkert fyrir bóndann ber,
—braut þó rif um daginn.

127. STEINGRÍMUR JOHNSON.

Steina hjá er stundin flest,
stiltur sunnanandi,
hefur allra búa best
bænda, út á landi.

128. KONRÁÐ KRISTJÁNSSON.

Konna líður lifið hjá
létt með sældar högum,
handa kulda hefur sá,
heldst á köldum dögum.

129. HANS BJÖRNSON.

Hansi að vísu ungur er
undir kreppu vetur,
gaddinum sig þó glaður ver,
—geri þeir eldri betur.

130. KRISTJÁN KRISTJÁNSSON.

Við hjá Stjána staldra skal
stúrinn mun hann ekki,
það er eins og kuldans kal
karlinn aldrei þekki.

131. JÚLÍUS BJARNASON.
Júlli heima eflaust er
um sitt bú að huga,
hugsar minna að hraða sér
heldur en vel að duga.

132. BERGUR DAVIÐSSON.
Bergur eiginn siglir sjó
sem við illa lyndum,
bóndinn mesta bjargarkló,
búinn við öllum vindum.

133. JÓN BÚASON
Bætist gömlum Búason
býsna erfið glíma,
börnin eru besta von
bóndans alla tíma.

134. ÓLI JOHNSON PÓST.
Gangið um hjá Óla Póst,
ungu heimasætur.
konulaus í kuldagjóst
kaldrar bíður nætur.

135. LEÓ MELSTED.
Vinnuýtinn Leó langt
leitar fram á veginn,
sveitamálin sækir strangt,
söfnuninnar megin.

---

136. Hér við Vestanvérana,
vildi eg mega skilja,
sæki þeir í söngvana,
svo sem hvað þeir vilja.

137. Nú eru mínir ljóða leikir
loksins þrotum á,
gufa, eins og gamlir reykir
gnúnum strengjum frá.

138. Eigið þið sem hlustað hafið
heiðursró og frið,
ekki verður úr því skafið
eitthvað píndust þið.

139. Ætlunin var, alla að telja
upp á þetta blað,
en sá fjöldi úr að velja,
ekkert víst með það.

140. Bóndi, eigðu á búi þínu
bragagjöldin mín,
eg gerði þau að gamni mínu
græskulaust til þín.

141. Rótt er stundum manni að mega
muna lítinn söng,
meðan vonsku - veðrin eiga
vetrarkvöldin löng.

T. T. KALMAN.





# ÞRESTIR.

## BRÉFKAFLI.

Sjáðu til, eg sestur er í sætið glaða,
þó sé ekki létt til ljóða,
lífgar andann stakan góða.

Þó er ekki því að fagna það sé gróði,
eða nokkur andans gleði
yfir þessu sem eg kveði.

Hitt er satt, það hugans mýkir harða klaka,
meðan nokkrir vilja vaka,
verður ljúf hin gamla staka.

Rökkrið, það er þungt og dapurt þegar náttar,
ljósin reynast minni máttar,
manninum sem nakinn háttar.

Skeflir yfir skjólin flest sem skýldu honum,
fjarska segir fátt af einum,
felast víða spor í leynum.

Gömul sár og grafnar þrár þig græta' og erta,
þess ei vert að vera að kvarta,
vetri í þínu eigin hjarta.

Sárt er þó að sitja í gjögrum svarta
klungra,
þeim sem ákaft langar lengra,
líta kreppa að sér þrengra.

Vænst er þá á væng að leita vorsins
strauma,
þar svo undur þægt að dreyma,
þar er sínu hægt að gleyma.

Lyfta sér í ljóman af þeim ljóssins
öndum,
vera um stund á vina fundum,
vorsins út í grænu lundum.

Loftsins synir syngja á greinum, sólu
næstir,
söngva snjallir þorsins þrestir,
þeir eru mínir næturgestir.

Kemur ljúfur Þorsteinn þar með þýða
blæinn,
Stefán yrkir allan daginn
undramátt í hjartaslaginn.

Jónas syngur silfurhreinu sólarljóðin,
Matthíasar guðaglóðin,
gefur þreyttum sigurmóðinn.

Einar hendir hljómagnægð svo hrekkur
óttinn,
Hannesar við hreysti þróttinn
huglaus geigar vetrarnóttin.

Páll með hýrum hendingum nær
hjartans æðum,
strengirnir í Steingríms kvæðum,
stilla þegar drjúgast blæðum.

Guðmundarnir gýgjur slá í geisla flæði,
löngum hafa Kristjáns kvæði,
kastað brjóstsins þyngstu mæði.

Arnfleygt Grímur grípur streng svo
gljúfrin ljóma,
Sigurðar við ástar-óma,
alla vægir stórudóma.

Davið eins og stormar styrmi stillir
gandinn,
risavaxni ofurandinn
öllu myrkri lævi blandinn.

Sveitagoðinn Sigurður er söngvalaginn
orðið hef þeim ómum feginn,
er eg blakti skugga megin.

Sælt er þá að sofna frá þeim
silfurtónum,
skýla þeir með skáldmóð sínum
skarinu á kertum þínum.

Alt er rótt og söngvasælt um svalan
frera.
það er eins og sumra svara
séu mættir, guðleg vara.

T. T. KALMAN.